# GUNNLAUGS SAGA ORMSTUNGU

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
GUÐNI JÓNSSON

REYKJAVÍK
BÓKAVERZLUN SIG. KRISTJÁNSSONAR

# Formáli.

Gunnlaugs saga er til í tveimur skinnhandritum. Annað þeirra er meðal hinna íslenzku skinnhandrita í Konungsbókhlöðunni í Stokkhólmi, nr. 18, 4to, ritað á síðara hluta 14. aldar. Í því sama handriti er einnig seinni hluti Heiðarvíga sögu, það er eigi glataðist af henni í brunanum mikla í Khöfn 1728. Handrit þetta er hið elzta og bezta, sem til er af sögunni, enda hefir það verið lagt til grundvallar við flestar útgáfur hennar. Er það í útgáfunum kallað *A*. Hitt skinnhandritið er í Árnasafni í Khöfn, AM 557, 4to, og er ritað á 15. öld; eru í því handriti margar sögur. Niðurlag Gunnlaugs sögu vantar í handritið; sagan endar þar á orðunum: *þann greiða, sem þú vill* (í 11. kap., bls. 43 í þessarri útgáfu). Þetta handrit er kallað *B* í útgáfunum. Auk þess eru til mörg pappírshandrit af sögunni, en þau eru öll runnin frá þessum tveimur skinnhandritum og hafa því ekkert sjálfstætt gildi.

Texti beggja handritanna er í meginatriðum hinn sami, og er því auðsætt, að þau eru bæði runnin frá sama frumriti. Margir leshættir eru þó mismunandi, en venjan er sú, að A hefir réttara og frumlegra texta, og sést það bezt, þar sem aðrar heimildir eru

til samanburðar, svo sem um mannanöfn. Að vísu getur út, af því brugðið, en oflangt mál yrði það hér að sýna þetta með dæmum. Hins vegar verður að geta um mismun handrita í upphafi sögunnar, þar sem A hefir alllangar málsgreinir, sem vantar alveg í B. Er þar fyrst að telja yfirskrift sögunnar, þar sem hún er talin eftir sögn Ara fróða. Það fær með engu móti staðizt, að Gunnlaugs saga í sinni núverandi mynd geti verið Ara verk, og mæla þar í gegn jafnt innri rök sem ytri. Sennilegast er, að þessi ummæli stafi frá þeim, er ritaði A, hvort sem hann hefir sett orðin í því skyni að vekja traust manna á sannleiksgildi sögunnar eða af því að hann hefir sjálfur haldið, að hún væri eftir Ara. — Þar sem verið er að lýsa Þorsteini í 1. kap., er sagt, að hann hafi eigi verið þvílíkur »afreksmaðr um vöxt ok afl sem Egill faðir hans« (bls. 1). Þar bætir A við þessarri klausu um Egil: *»því at svá er sagt af fróðum mönnum, at Egill hafi mestr kappi verit á Íslandi ok hólmgöngumaðr ok mest ætlat af bónda sonum; fræðimaðr var hann ok mikill ok manna vitrastr. Þorsteinn var ok* it mesta afarmenni,« o. s. frv. Þessu er sleppt hér í útgáfunni og er það því tekið hér upp orðrétt. Sömuleiðis vantar í B ummælin um ætt Mýramanna: *Svá segja fróðir menn — þriði Steinþórr á Eyri* (bls. 1—2), að undanskilinni setningunni: »Þorsteinn átti Jófríði Gunnarsdóttur Hlífarsonar,« sem stendur í báðum handritum. Það, sem A hefir hér fram yfir B, er að líkindum viðbót þess, er ritaði A, en ekki úr sögunni, eins og hún var í öndverðu. Viðbótin um ætt Mýramanna er þó svo athyglisverð og bendir á svo mikinn fróðleik, þar á meðal sérstaklega kynni af Egils sögu (smbr. 87. kap.), að eg tók hana upp í texta sögunnar. Enn skal þess

getið, að margir telja fleiri innskot í söguna og nefna þar til þrjú atriði. Hið fyrsta er ummælin um Auðun festargram (»Þessi Auðun — síðar en þetta,« bls. 13); annað um tunguna í Englandi (»Ein var þá tunga — þaðan ættaðr,» bls. 19), og hið þriðja um hin fjölmennustu þing á Íslandi (»Þat hefir it þriðja þing — Heiðarvíg«, bls. 41). En hér gegnir öðru máli en um viðbætur A í upphafi sögunnar, því að öll þessi atriði eru í báðum handritum hennar, en það sýnir, að þau hafa bæði staðið í frumriti þeirra beggja. Eg get því engan veginn fallizt á að telja þetta til seinni viðbóta, enda verða ekki færð fyrir því önnur rök en þau, að þessi atriði séu óþörf fyrir þráð sögunnar og komi ekki við aðalefni hennar. En enginn kann um það að segja, hver smekkur höfundarins var í þessu efni, og sumum þessarra atriða er að minnsta kosti svo háttað, að um það má deila, hvort þau séu óþörf í sögunni.

 Eg skal þá víkja að sögunni sjálfri og minnast á nokkur atriði, er nauðsynlegust eru til þess að glöggva sig á henni. Verður þá fyrst fyrir að athuga heimildir þær, er höfundurinn hefir notað, og hverjar þær eru. Eftir því, sem sagan segir sjálf, hefir hann átt kost á allríkulegum samtímaheimildum, en það eru *vísurnar*. Í sögunni eru 18 vísur og vísubrot eignuð Gunnlaugi, 3 vísur taldar eftir Hrafn, 1 tilfærð eftir Þórð Kolbeinsson úr »kvæði því, er hann orti um Gunnlaug ormstungu,« og 1 vísa eftir Þorkel í Hraundal, síðara mann Helgu. Loks eru 2 draumvísur. Vísur þeirra Gunnlaugs og Hrafns og kvæði Þórðar Kolbeinssonar um Gunnlaug voru auðvitað hinar ágætustu og áreiðanlegustu heimildir, sem kostur var á. En allt veltur þá á því, að vísunnar séu rétt feðraðar, að þær séu ekki ortar síðar

af allt öðrum mönnum eða af höfundi sögunnar sjálfum. Ein af vísum þeim, sem Gunnlaugi eru eignaðar, *Brámáni skein brúna* (20. vísa), er einnig í Kormáks sögu og eignuð þar Kormáki; eru allir á einu máli um það, að það sé réttara. Allar hinar vísurnar í sögunni telur Finnur Jónsson rétt feðraðar (smbr. Den norsk-isl. Skjaldedigtning B, I. 184—89, 195, 203), en aðrir hafa borið birgður á það. Einna lengst í því efni mun Björn M. Ólsen hafa gengið í ritgerð sinni Om Gunnlaugs saga ormstungu (Khöfn 1911). Eftir Gunnlaug telur hann ekki annað en leifarnar af konungakvæðunum, um Aðalráð og Sigtrygg silkiskegg (3. og 6—8. vísu), fyrra helming 19. vísu (hann er einnig varðveittur í Snorra-Eddu) og 13. og 14. vísu. Allar hinar vísurnar, þar á meðal vísur Hrafns og vísuna úr kvæði Þórðar Kolbeinssonar — ummæli sögunnar um það ætlar hann tilbúning einn,— telur hann ýmist mjög grunsamlegar eða víslega falsaðar. Hér er eigi rúm til þess að greina rök hans fyrir þessarri skoðun, né heldur annarra með og móti. Um sumar af vísunum leikur allmikill vafi, en þó held ég, að B. M. Ólsen gengi of langt í því að fordæma þær, því að þess ber að gæta, að margar þeirra eru úr lagi færðar í handritunum, og má því ekki álykta of mikið af smárímgöllum á þeim; getur þar hæglega verið um afbökun að ræða. Og það bendir líka á, að vísurnar séu allgamlar, hve víða þær eru færðar úr lagi. Enn fremur er það kunnugt af öðrum heimildum (Skáldatali o. fl.), að þeir Gunnlaugur og Hrafn voru skáld, og er engin ástæða til að ætla, að þeirra vísur hafi liðið undir lok og gleymzt fremur en margra annarra samtíðarmanna þeirra. Það er því naumast gerlegt að hafa orð sögunnar að engu um höfunda vísnanna, nema sýnt

verði með veigamiklum rökum, að þær séu yngri. En því fer fjarri, að það sé hægt, þótt líkur megi til finna um sumar þeirra. En hvað sem um það er, er uppistaða sögunnar varðveitt í þeim vísum Gunnlaugs, sem allir eru sammála um, að hann hafi ort; Gunnlaugr fer utan og yrkir um konunga, Aðalráð og Sigtrygg; hann elskar Helgu ina fögru og er óðgjarn að eiga hana, en hún verður kona Hrafns og Gunnlaugur sér aldrei glaðan dag eftir það. Út af henni hefst svo fjandskapur milli þeirra (»rýgr vas alin at rógi fira börnum«). Vilji maður taka allar vísur gildar, koma fleiri atburðir til greina: Orðahnippingar við hirðmanninn (6. kap.), viðureign Gunnlaugs við mann, sem vildi halda fyrir honum fé hans (7. kap.), orð Gunnlaugs um það, að hann hafi lofað að heimsækja 3 konunga og 2 jarla (7. kap.), úrskurður Gunnlaugs um það, hvor væri meiri Sigurður jarl eða Eiríkur jarl (8. kap.), spá hans um það, að Hrafn mundi ekki ná ástum Helgu, því að hann sjálfur hefði áður oftsinnis notið faðmlaga hennar (smbr. frásögn 4. kap.); Aðalráður konungur tefur fyrir útkomu Gunnlaugs (smbr. 10. kap.), hólmganga Hrafns og Gunnlaugs á alþingi (11. kap.) og hinn síðasti bardagi þeirra á Dinganesi, þar sem Gunnlaugur fellir Grím og Ólaf, áður en hann berst við Hrafn. Loks er síðasta vísan, sem segir frá andláti Helgu. Flest helztu atvik sögunnar eru því varðveitt í vísunum og þó að menn vilji draga eitthvað frá vegna grunsamlega vísna, verður þó aldrei svo langt gengið, að aðalefni sögunnar verði eigi eftir.

Jafnframt vísunum og í sambandi við þær hafa varðveitzt *munnlegar sagnir*, er orðið hafa höfundi sögunnar smíðarefni í frásögn sína, er hann hefir lagað í hendi sér og fellt saman, svo sem honum

þótti bezt fara. Þekking hans og fróðleikur hefir verið ærið margháttaður, og kemur það víða fram í sögunni.

Kem eg þá að því að minnast á þær rituðu heimildir, sem ætla má, að höfundurinn hafi þekkt eða stuðzt við. Sagan vísar sjálf til *Laxdœlu,* með þeim hætti, að auðsætt er, að höfundurinn hefir þekkt efni hennar. Í 5. kap. segir svo: »Þessi Auðun vildi eigi útan flytja sonu Ósvífs ins spaka eptir víg Kjartans Ólafssonar, sem segir í Laxdœla sögu, ok varð þat þó síðar en þetta.« Þessi tilvitnun á við frásögn Laxd. 51. kap. Um bein rittengsl getur varla verið að ræða milli sagnanna. Þá nefnir Gunnlaugs saga bæði *Njálsbrennu* og *Heiðarvíg.* Segir sagan, að þing það, er þeir Hrafn og Gunnlaugur börðust, hafi »it þriðja þing verit fjölmennast, annat eptir brennu Njáls, it þriðja eptir Heiðarvíg« (11. kap.). Sýnir þetta ekki annað en það, að höfundur sögunnar hefir þekkt bæði Njálu og Heiðarvíga sögu og verið kunnugt um efni þeirra. Lýsing Þorsteins Egilssonar í 1. kap. minnir allmikið á *Egils sögu,* og B. M. Ólsen telur öldungis vafalaust, að hún sé heimild Gunnlaugs sögu, en skoðun hans er sú, að viðbæturnar í A, sem áður er getið, séu frumlegar í sögunni, og breytir það æði miklu, því að àhrif frá Egils sögu eru einmitt greinilegust í viðbótunum. Finnur Jónsson telur sögurnar öldungis óháðar hvor annarri. Sönnu næst hygg eg það, að ekki sé um bein áhrif að ræða, heldur óbein, þ. e., að höfundur Gunnlaugs sögu hafi hafi verið kunnugur Egils sögu, og gæti þess ósjálfrátt, einkum í lýsingu Þorsteins. Einnig er vikið að efni Egils sögu í orðum Þorsteins í 5. kap. (bls. 15): »Ek støkkða í brott Steinari, syni Önundar sjóna,« og í svari Gunnlaugs: »Egils nauztu at því, föður þíns.« En þetta sýnir meðal annars

það, að höfundi Gunnlaugs sögu hefir verið kunnugt efni Egils sögu. Sama er líka að segja um ummæli Gunnlaugs um föður sinn við Þorstein: »Eða hvat hefir þú í móti því, er hann deildi kappi við Þorgrím goða Kjallaksson á Þórsnesþingi ok við sonu hans ok hafði einn þat, er við lá?« Frá þessu er sagt í *Eyrbyggja sögu*, 17., kap., og bendir það á, að höfundur Gunnlaugs sögu hafi einnig þekkt hana. Gunnlaugs saga segir einnig nokkuð frá Hallfreði vandræðaskáldi, og er sú frásaga líka í *Hallfreðar sögu*, en þar er Gunnlaugs saga sennilega heimildin. Hins vegar minnir lýsing Gunnlaugs mjög á lýsingu Hallfreðar í sögu hans, og má vera, að þar kenni áhrifa frá Hallfreðar sögu. Þá hefir því og verið haldið fram, að höfundur Gunnlaugs sögu hafi notað *Landnámu* sem heimild (B. M. Ólsen), en samanburður þeirra rita sýnir, að það er mjög ósennilegt. Í Gunnlaugs sögu eru mjög litlar ættartölur og alls ekkert af öðru Landnámuefni. Efni til samanburðar er því harla lítið, og þar sem sögunni og Landnámu ber eigi alstaðar saman, verður með engu móti gert ráð fyrir rittengslum milli þeirra. Má vera, að eg geri síðar nánari grein fyrir þessu efni á öðrum stað.

Hér er eigi tækifæri til að fjölyrða meira um heimildir Gunnlaugs sögu. Ýmis atriði í sögunni minna allmikið á aðrar sögur (smbr. m. a. fyrrnefnda ritgerð B. M. Ólsens, bls. 50—51), en oftast nær er erfitt að skera úr því, hvort þar sé um bein áhrif að ræða eða ekki. Eins og áður er tekið fram, er auðsætt, að höfundur Gunnlaugs sögu hefir verið víða heima og fróðleiksmaður mikill, ekki aðeins á íslenzka fræði, heldur einnig í sögu Norðurlanda og Vesturlanda, þar sem honum er kunnugt um, hverjir

þar áttu ríkjum að ráða á dögum Gunnlaugs ormstungu. Slíkum manni er það ætlanda að hafa lesið öll þau rit, sem hann komst yfir og til voru á hans dögum, auk þess sem hann hefir verið sér úti um alls konar alþýðlegan fróðleik, og er því oft vant að segja, hvaðan honum hefur komið vitneskja um þetta eða hitt.

*Tímatal* Gunnlaugs sögu verður bezt að miða við utanför Gunnlaugs. Hann fór utan með Auðuni festargram, að því er sagan telur, og var Eiríkur jarl þá kominn til ríkis í Noregi. Utanförin verður því eigi fyrr en um sumarið 1001. Laxdœla saga segir, að Auðun hafi farizt við Færeyjar sama sumar sem Ósvífurssynir voru gerðir sekir um víg Kjartans Ólafssonar, og týndist hvert mannsbarn á skipinu. Samkvæmt tímatali Laxdœlu og annálum er Kjartan veginn 1003 (á fimmta dag páska um vorið). Sama vor urðu Ósvífurssynir sekir á Þórsnesþingi, Auðun vill eigi flytja þá utan, Ósvífur spáir honum hrakfara, og hann ferst síðar um sumarið. Eftir þessu hefir utanför Gunnlaugs orðið annaðhvort sumarið 1001 eða 1002. Nær þessu verður ekki komizt á þenna hátt, en eg skal fyrst um sinn velja hér fyrra árið, eins og Guðbrandur Vigfússon, og fylgja nú hans reikningi (Safn til sögu Íslands I. 438—441). Þegar Gunnlaugur fer utan, er hann 18 vetra, og er eftir því fæddur 983. Veturinn 1001—02 er hann með Aðalráði konungi. Sumarið 1002 heimsækir hann Sigtrygg konung silkiskegg og Sigurð jarl í Orkneyjum. Snemma vors 1003 kemur hann til Ólafs Svíakonungs og hittir þar Hrafn, og fer Hrafn það sumar út til Íslands, en það haust fer Gunnlaugur aftur til Englands og er þar um veturinn 1003—04. Er hann þá búinn að vera 3 vetur erlendis, svo sem ráð var fyrir

gert, en Aðalráður konungur gefur honum ekki fararleyfi fyrr en sumarið eftir, 1005, og kemur hann þá til Íslands um haustið, um það leyti sem brúðkaup þeirra Hrafns og Helgu stendur yfir. Næsta sumar, 1006, ganga þeir á hólm á alþingi, en fara báðir utan um haustið til þess að berjast til úrslita. Veturinn 1006—1007 er Gunnlaugur í Orkneyjum og veturinn eftir með Eiríki jarli í Þrándheimi. Um vorið 1008 berjast þeir Hrafn, og falla báðir.

Við þenna útreikning er sitt hvað að athuga. 1) Af orðum sögunnar virðist helzt að ráða, að utanför Gunnlaugs hafi orðið síðar en hér er gert ráð fyrir. Á þetta benda einkum tímaákvarðanir sögunnar í 5. kap.: »Ok þessu nær urðu þau tíðendi, — — at landit varð allt kristit ok allt fólk hafnaði fornum átrúnaði. Gunnlaugr ormstunga — — var nú ýmist at Borg með Þorsteini eða Illuga föður sínum á Gilsbakka, þrjá vetr, ok var hann þá átján vetra. — — Ok litlu síðar beiddi Gunnlaugr sér fararefna í annat sinn.« Beinast liggur við að álykta af þessu, að utanför Gunnlaugs hafi ekki orðið fyrr en árið 1003. 2) Í Eyrbyggju er sagt frá því, að Gunnlaugur ormstunga hafi verið í liði Borgfirðinga, er Snorri goði fór á hendur þeim. Samkvæmt áreiðanlegum heimildum hefir þessi herferð Snorra orðið vorið 1008, sama vorið sem hann skipti bústöðum við Guðrúnu Ósvífursdóttur. Eftir útreikningnum hér á undan er Gunnlaugur heima sumarið 1006, en eigi hér á landi 1008, en ef af utanför hans er 1003, kemur allt heim. 3) Gunnlaugs saga segir, að þing það, er þeir Hrafn og Gunnlaugur börðust, hafi verið hið þriðja fjölmennasta þing á Íslandi. Á alþingi 1006 er ekki kunnugt um neinn stóran málatilbúnað eða liðssafnað, en á alþingi 1008 sótti Snorri goði Borgfirðinga um

víg Styrs mágs síns, og hefir þá verið mikill liðsafnaður af hvorumtveggjum og þing fjölmennt. Kæmi þetta og allt heim, ef utanför Gunnlaugs væri sett 1003. 4) Samkvæmt tímatali Gunnlaugs sögu, eins og það er reiknað hér að framan, er Sveinn konungur tjúguskegg talinn dáinn eigi síðar en 1004, og er það fyrr en nokkurar aðrar íslenzkar heimildir telja. Flestar telja hann dáinn 1008 eða 1009, en sumar 1005 eða 1006. En sé gert ráð fyrir utanför Gunnlaugs árið 1003, verður dánarár Sveins konungs 1006 og er þá í meira samræmi við aðrar heimildir. Annars hafa allar íslenzkar heimildir farið villt um þetta, því að hið rétta dánarár Sveins konungs er 1014. 5) Sumarið sem hólmgangan varð á alþingi milli Hrafns og Gunnlaugs er sagt, að »Skapti hafði þá *enn* lögsögu.« Hafi þetta gerzt 1006, er það mjög óeðlilega orðað, því að þá var aðeins 3. lögsögumannsár hans, og því ekki búið að endurkjósa hann, en hafi þetta ekki gerzt fyrr en 1008, verða orð sögunnar eðlilegri; þá er 5. lögsögumannsár Skafta og búið að endurkjósa hann einu sinni. Þá mátti vel segja, að hann væri *enn* lögsögumaður.

Af því, sem nú hefir verið talið, virðist utanför Gunnlaugs hafa orðið árið 1003, ef einungis er miðað við tímatal sögunnar sjálfrar, og allar heimildir benda til hins sama — nema Laxdœla. Eftir því verður Gunnlaugur fæddur 985, er erlendis 1003—1007, berst við Hrafn á alþingi 1008, en fall þeirra verður 1010. Sé hins vegar miðað við Laxdœlu, fall Kjartans Ólafssonar og druknun Auðuns festargrams, verður þetta allt 1—2 árum fyrr.

Af því, sem nú hefur verið rakið, virðist rétt að tímasetja einstaka atburði sögunnar á þessa leið:

| | |
|---|---|
| Fæddur Þorsteinn Egilsson . . . . . . um | 950 |
| Fædd Jófriður Gunnarsdóttir . . . . . . » | 954 |
| Kvonfang Þorsteins Egilssonar . . . . . » | 972 |
| Fædd Helga in fagra . . . . . . . . . . . . | 985 |
| Fæddur Gunnlaugur ormstunga . . . . . . | 985 |
| Kristnitakan . . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 1000 |
| Utanför Gunnlaugs. Gunnlaugur kemur um haustið til Englands . . . . . . . . . | 1003 |
| Gunnlaugur er í Lundúnum um veturinn. Fer um vorið til Dyflinnar og hittir Sigtrygg konung silkiskegg. Fer samsumars til Orkneyja og hittir Sigurð jarl Hlöðvisson. Kemur um haustið til Konungahellu. Utanför Hrafns Önundarsonar . . . . . . . . . . . . . . . | 1004 |
| Gunnlaugur er í Skörum með Sigurði jarli um veturinn. Kemur til Uppsala um vorið og hittir Ólaf Svíakonung og Hrafn. Hrafn fer til Íslands um sumarið, en Gunnlaugur til Englands . . . | 1005 |
| Gunnnlaugur dvelst með Aðalráði konungi. Andlát Sveins konungs tjúguskeggs að tali sögunnar . . . . . . . . . | 1005—1006 |
| Bónorð Hrafns við Helgu á alþingi . . . | 1006 |
| Helga er föstnuð Hrafni á alþingi. Aðalráður konungur gefur Gunnlaugi heimfararleyfi eftir mitt sumar. Gunnlaugur fer til Noregs og þaðan heim til Íslands með Hallfreði vandræðaskáldi. Brúðkaup Hrafns og Helgu að veturnóttum . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 1007 |
| Gunnlaugur er í liði Borgfirðinga móti Snorra goða (Eyrbyggja saga). Þriðja fjölmennast þing á Íslandi. Hólmganga | |

þeirra Hrafns og Gunnlaugs á alþingi. Utanför þeirra um haustið ....... 1008
Gunnlaugur er í Orkneyjum en Hrafn í Þrándheimi um veturinn. Gunnlaugur fer til Þrándheims um sumarið .... 1009
Gunnlaugur er á Hlöðum með Eiríki jarli, en Hrafn í Lifangri vetur annan 1009—1010
Fall þeirra Gunnlaugs og Hrafns um vorið 1010
Illugi svarti heimtar sonarbætur af Önundi á alþingi; gerir aðför að honum um haustið .................. 1011
Hermundur Illugason vegur Hrafn stýrimann í hefnd eftir Gunnlaug ..... 1012

Af beinum tímatalsskekkjum verður á fátt eitt bent. Getið hefir verið um skekkjuna um andlát Sveins konungs tjúguskeggs, en þar er Gunnlaugs saga ekki ein um hituna. Einnig er það rangt, að Galti, bróðir Hallfreðar vandræðaskálds, væri á lífi, er Gunnlaugur kom úr utanför sinni, því að samkvæmt Hallfreðar sögu var Galti veginn eigi síðar en 1001.

Um *aldur* Gunnlaugs sögu eru skoðanir mjög skiptar. Finnur Jónsson telur hana frá lokum 12. aldar, en B. M. Ólsen frá lokum hinnar 13. Mismunur 100 ár. Það er fljótsagt, að eg efast ekki um, að hið síðara takmark sé nær hinu rétta. Þegar þess er gætt, hvað höfundurinn er kunnugur ýmsum heimildum og víðlesinn í fornum fræðum, þá er nær að ætla, að sagan sé fremur seint rituð. Á það bendir einnig hin þroskaða frásagnarlist, sem er þó ekki á hinn bóginn komin út í öfgar ýkjusagnanna, heldur er hófsöm í flestum greinum. Skáldlegur blær er þó á frásögninni á stundum, og »er margt í síðara hluta sögunnar, um einvíg þeirra Hrafns austur á Jamta-

landi, fáheyrt og undarlegt«, eins og Guðbr. Vigfússon segir. Mér virðist Gunnlaugs saga standa á svipuðu stigi og Njála í skáldlegri efnismeðferð, og mættu þær sögur vel vera frá svipuðum tíma, eða frá því kringum 1280. Ekki er til neins að gizka á höfund Gunnlaugs sögu. Það er mjög líklegt, að hann hafi verið af ætt Gilsbekkinga og átt heima í Borgarfirði.

Gunnlaugs saga hefir oftar verið prentuð en nokkur önnur Íslendinga saga. 1. útg., Khöfn 1775, eftir Jón Eiríksson. 2. útg. í Íslendinga sögum II, Khöfn 1847, eftir Jón Sigurðsson. 3. útg. í »Analecta norrœna,« Leipzig 1859, eftir Th. Möbius (2. prentun Leipzig 1877). 4. útg., Christiania 1862, eftir O. Rygh. 5. útg. í Oldnordisk Læsebog, Khöfn 1870, eftir L. F. A. Wimmer (9. prentun Khöfn 1929). 6. útg., Reykjavík 1880, eftir Jón Þorkelsson. 7. útg., Halle 1886, eftir E. Mogk (2. prentun endurbætt Halle 1908). 8. útg. í Einleitung in das Studium des Altnordischen, Hagen 1887, eftir J. C. Poestion. 9. útg., nr. 9 í Íslendinga sögum, Reykjavík 1893, eftir Valdimar Ásmundarson (2. prentun Rvík 1911). 10. útg., Khöfn 1916, eftir Finn Jónsson. Þýdd hefir sagan verið á mörg mál, dönsku, norsku, sænsku, færeysku, þýzku, ensku, frönsku og latínu, og margt verið um hana ritað; vísast um það allt til Halld. Hermannss., Islandica I. Af því, sem ritað hefir verið um söguna síðan sú bók kom út, má einkum nefna ritgerð eftir Finn Jónsson: Hinn síðasti bardagi Gunnlaugs og Hrafns (Skírnir, 1915, bls. 383—88), þar sem hann telur sig hafa fundið staðinn, þar sem þeir börðust, og lýsir honum, og Athugasemd eftir B. M. Ólsen á sama stað. Enn fremur ritgerð eftir síra Einar Friðgeirsson Þingstaðurinn undir Valfelli (Skírnir, 1917, bls. 319—21

og svar eftir Matthías Þórðarson (s, st. bls. 416—19). Um vísurnar hefir Eiríkur læknir Kjerulf ritað Skýringar á vísum Gunnlaugs ormstungu í Lesbók Morgunbl. V (1930), bls. 17—21.

Þessi útgáfa er byggð á útgáfu Finns Jónssonar. (Khöfn 1916), sem er prentuð stafrétt eftir handritum. Er textinn í A lagður til grundvallar, en fáeinir leshættir þó teknir úr B, þegar þeir eru sýnilega réttari. Vísnaskýringarnar hefi eg samið að nýju og reynt að breyta sem minnstu frá því, sem í handritunum stendur. En vísnaskýringar fyrri manna hafa snúizt heldur til mikið um það að »leiðrétta« texta handritanna, gizka á og jafnvel yrkja inn í, ef eitthvað vantaði. Slíkt þykir nú ekki hæfa, enda þótt menn neyðist stundum til að grípa til ágizkana, þegar allt annað þrýtur.

Reykjavík, 3. ágúst 1934.

*GUÐNI JÓNSSON.*





# Saga þeira Hrafns ok Gunnlaugs ormstungu,

eptir því, sem sagt hefir Ari prestr inn fróði Þorgilsson, er mestr frœðimaðr hefir verit á Íslandi á landnámssögur ok forna frœði.

**1.** Þorsteinn hét maðr, hann var Egilsson Skallagríms sonar, Kveldúlfs sonar hersis ór Nóregi, en Ásgerðr hét móðir Þorsteins ok var Bjarnardóttir. Þorsteinn bjó at Borg í Borgarfirði. Hann var auðigr at fé ok höfðingi mikill, vitr maðr ok hógværr ok hófsmaðr um alla hluti. Engi var hann afreksmaðr um vöxt eða afl, sem Egill faðir hans, en þó var hann it mesta afarmenni ok vinsæll af allri alþýðu. Þorsteinn var vænn maðr, hvítr á hár ok eygr manna bezt. Svá segja fróðir menn, at margir í ætt Mýramanna, þeir sem frá Agli eru komnir, hafi verit menn vænstir, en þat sé þó mjök sundr-

greiniligt, því at sumir í þeiri ætt er kallat at ljótastir menn hafi verit. Í þeiri ætt hafa ok verit margir atgørvismenn um marga hluti, sem var Kjartan Óláfsson pá ok Víga-Barði ok Skúli Þorsteinsson. Sumir váru ok skáldmenn miklir í þeiri ætt: Björn Hítdœlakappi, Einarr prestr Skúlason, Snorri Sturluson ok margir aðrir. Þorsteinn átti Jófríði Gunnarsdóttur Hlífarsonar. Gunnarr hefir bazt vígr verit ok mestr fimleikamaðr verit á Íslandi af búandmönnum, annarr Gunnarr at Hlíðarenda, þriði Steinþórr á Eyri. Jófríðr var átján vetra, er Þorsteinn fekk hennar; hon var ekkja. Hana hafði átt fyrr Þóroddr, son Tungu-Odds, ok var þeira dóttir Húngerðr, er þar fœddisk upp at Borg með Þorsteini. Jófríðr var skörungr mikill. Þau Þorsteinn áttu margt barna, en þó koma fá við þessa sögu. Skúli var elztr sona þeira, annarr Kollsveinn, þriði Egill.

**2.** Eitt sumar er þat sagt, at skip kom af hafi í Gufuárósi. Bergfinnr er nefndr stýrimaðr fyrir skipinu, norrænn at ætt, auðigr at fé ok heldr við aldr. Hann var vitr maðr. Þorsteinn bóndi reið til skips ok réð jafnan mestu, hver kaupstefna var, ok svá var enn. Austmenn vistuðusk hér ok hvar, en Þorsteinn tók við stýrimanni, fyrir því at hann beiddisk þangat. Bergfinnr var fátalaðr of

vetrinn, en Þorsteinn veitti honum vel. Austmaðrinn hendi mikit gaman at draumum,

Um várit einn dag rœddi Þorsteinn um við Bergfinn, ef hann vildi ríða með honum upp undir Valfell. Þar var þá þingstöð þeira Borgfirðinga. En Þorsteini var sagt, at fallnir væri búðarveggir hans. Austmaðrinn kvezk þat vilja, ok riðu þeir heiman of daginn þrír saman ok húskarl Þorsteins, þar til er þeir koma til bœjar þess, er at Grenjum heitir. Þar bjó einn maðr félítill, er Atli hét; hann var landseti Þorsteins, ok beiddi Þorsteinn Atla, at hann fœri til starfs með þeim ok hefði pál ok reku. Hann gerði svá. Ok er þeir koma upp undir Valfell til búðartóptanna, þá tóku þeir til starfs allir ok fœrðu út veggina. Veðrit var heitt af sólu, ok varð þeim Þorsteini ok Austmanni erfitt. Ok er þeir höfðu út fœrt veggina, þá settisk Þorsteinn niðr ok Austmaðr í búðartóptina, ok sofnaði Þorsteinn ok lét illa í svefni. Austmaðr sat hjá honum ok lét hann njóta draums síns, ok er hann vaknaði, var honum erfitt orðit. Austmaðr spurði, hvat hann hefði dreymt, er hann lét svá illa í svefni. Þorsteinn svaraði: »Ekki er mark at draumum«. Ok er þeir riðu heim um kveldit, þá spyrr Austmaðr enn at, hvat Þorstein hefði dreymt. Þorsteinn svarar: »Ef ek segi þér drauminn, þá skaltu ráða hann sem hann er

til. Austmaðr kvezk á þat hætta mundu. Þorsteinn mælti þá: »Þat dreymði mik, at ek þóttisk heima vera at Borg ok úti fyrir karldurum, ok sá ek upp á húsin, ok á mæninum álpt eina væna ok fagra, ok þóttumk ek eiga ok þótti mér allgóð. Þá sá ek fljúga ofan frá fjöllunum örn mikinn. Hann fló hingat ok settisk hjá álptinni ok klakaði við hana blíðliga, ok hon þótti mér þat vel þekkjask. Þá sá ek, at örninn var svarteygr ok járnklœr váru á honum; vaskligr sýndisk mér hann. Því næst sá ek fljúga annan fugl af suðrætt. Sá fló hegat til Borgar ok settisk á húsin hjá álptinni ok vildi þýðask hana. Þat var ok örn mikill. Brátt þótti mér sá örninn er fyrir var, ýfask mjök, er hinn kom til, ok börðusk þeir snarpliga ok lengi, ok þat sá ek, at hvárumtveggja blœddi; ok svá lauk þeira leik, at sinn veg hné hvárr þeira af húsmæninum, ok váru þá báðir dauðir, en álptin sat eptir hnipin mjök ok daprlig. Ok þá sá ek fljúga fugl ór vestri; þat var valr. Hann settisk hjá álptinni ok lét blítt við hana, ok síðan flugu þau í brott bæði samt í sömu ætt, ok þá vaknaða ek. Ok er draumr þessi ómerkiligr,« segir hann, »ok mun vera fyrir veðrum, at þau munu mœtask í lopti ór þeim ættum, er mér þótti fuglarnir fljúga.« Austmaðr segir: »Ekki er þat mín ætlan,« segir hann, »at svá sé«.

Þorsteinn mælti þá: »Ger af drauminum slíkt er þér sýnisk líkligast ok lát mik heyra.« Austmaðr mælti: »Fuglar þeir munu vera manna fylgjur. En húsfreyja þín er eigi heil, ok mun hon fœða meybarn frítt ok fagrt, ok munu þit unna því mikit; en gögfir menn munu biðja dóttur þinnar ór þeim ættum, sem þér þóttu ernirnir fljúga at, ok leggja á hana ofrást ok berjask of hana ok látask báðir af því efni. Ok því næst mun inn þriði maðr biðja hennar ór þeiri ætt, er valrinn fló at, ok þeim mun hon gipt verða. Nú hefi ek þýddan draum þinn, ok hygg eptir munu ganga.« Þorsteinn svarar: »Illa er draumr ráðinn ok óvingjarnliga,« sagði hann, »ok munt þú ekki drauma ráða kunna.« Austmaðr svarar: »Þú munt at raun um komask, hversu eptir gengr.« Þorsteinn lagði fæð á Austmanninn, ok fór hann á brott um sumarit ok er hann nú ór sögunni.

3. Um sumarit bjósk Þorsteinn til þings ok mælti til Jófríðar húsfreyju, áðr hann fór at heiman: »Svá er háttat,« segir hann »at þú ert með barni, ok skal þat barn út bera, ef þú fœðir meybarn, en upp fœða, ef sveinn er.« Ok þat var þá siðvanði nökkurr, er land var allt alheiðit, at þeir menn, er félitlir váru en stóð ómegð mjök til handa, létu út bera börn sín, ok þótti þó illa gört ávallt. Ok er

Þorsteinn hafði þetta mælt, þá svarar Jófríðr: »Þetta er óþínsliga mælt,« segir hon, »slíkr maðr sem þú ert, ok mun þér eigi sýnask þetta at láta gera, svá auðigr maðr sem þú ert.« Þorsteinn svarar: »Veizt þú skaplyndi mitt,« segir hann, »at eigi mun hlýðisamt verða, ef út af er brugðit.« Síðan reið hann til þings, en Jófríðr fœddi meðan meybarn ákafa fagrt. Konur vildu þat bera at henni, en hon kvað þess litla þörf, ok lét þangat kalla smalamann sinn, er Þorvarðr hét, ok mælti hon: »Hest minn skaltu taka ok leggja söðul á ok fœra barn þetta vestr í Hjarðarholt Þorgerði Egilsdóttur ok bið hana upp fœða með leynd, svá at Þorsteinn verði eigi varr við, ok þeim ástaraugum renni ek til barns þessa, at víst eigi nenni ek, at þat sé út borit. En hér eru þrjár merkr silfrs, er þú skalt hafa at verkkaupi, en Þorgerðr skal fá þér fari vestr þar ok vist um haf«. Þorvarðr gerði sem hon mælti. Síðan reið hann vestr í Hjarðarholt með barnit ok fekk Þorgerði í hendr, en hon lét upp fœða landseta sinn, er bjó inn á Leysingjastöðum í Hvammsfirði. En hon tók Þorvarði fari norðr í Steingrímsfirði í Skeljavík ok vist of haf, ok fór hann þar útan ok er hann nú ór sögunni.

Ok er Þorsteinn kom heim af þingi, þá segir

Jófríðr honum, at barnit er út borit, sem hann hafði fyrir mælt, en smalamaðr var í brott hlaupinn ok stolit í brott hesti hennar. Þorsteinn kvað hana hafa vel gört ok fekk sér smalamann annan. Nú liðu svá sex vetr, at þetta varð ekki víst. Ok þá reið Þorsteinn til heimboðs vestr í Hjarðarholt, til Óláfs pá, mágs síns, Höskuldssonar, er þá þótti vera með mestri virðingu allra höfðingja vestr þar. Þorsteini var vel fagnat sem líkligt var, ok einhvern dag at veizlunni er þat sagt, at Þorgerðr sat á tali við Þorstein bróður sinn í öndvegi, en Óláfr átti tal við aðra menn. En yfir gegnt þeim á bekkinum sátu meyjar þrjár. Þá mælti Þorgerðr: »Hversu lízk þér, bróðir, á stúlkur þessar, er hér sitja gegnt okkr?« Hann svarar: »Allvel,« segir hann, »ok er þó ein fegrst miklu, ok hefir hon vænleik Óláfs, en hvíti ok yfirbragð várt Mýramanna.« Þorgerðr svarar: »Víst er þat satt, er þú segir, bróðir, at hon hefir hvíti ok yfirbragð várt Mýramanna, en eigi vænleik Óláfs pá, því at hon er eigi hans dóttir. »Hversu má þat vera?« segir Þorsteinn, »en þó sé hon þín dóttir.« Hon svarar: »Með sannendum at segja þér, frændi,« kvað hon, »þá er þessi þín dóttir en eigi mín, in fagra mær;« ok segir honum síðan allt sem farit hafði ok biðr hann fyrirgefa sér ok konu sinni þessi afbrigði. Þor-

steinn mælti: »Ekki kann ek ykkr at ásaka um þetta, ok veltr þangat sem vera vill um flesta hluti; ok hafi þit vel yfir slétt vanhyggju mína. Lízk mér svá á mey þessa, at mér þykkir mikil gipta í at eiga jafnfagrt barn; eða hvat heitir hon?« »Helga heitir hon,« segir Þorgerðr. »Helga in fagra,« segir Þorsteinn. »Nú skalt þú búa ferð hennar heim með mér.« Hon gerði svá. Þorsteinn var þaðan út leiddr með góðum gjöfum, ok reið Helga heim með honum ok fœddisk þar upp meðr mikilli virðing ok ást af föður ok móður ok öllum frændum.

4. Í þenna tíma bjó uppi á Hvítársíðu, á Gilsbakka, Illugi svarti Hallkelsson, Hrosskelssonar. Móðir Illuga var Þuríðr dylla, dóttir Gunnlaugs ormstungu. Illugi var annarr mestr höfðingi í Borgarfirði en Þorsteinn Egilsson. Illugi svarti var stóreignamaðr ok harðlyndr mjök ok helt vel vini sína. Hann átti Ingibjörgu, dóttur Ásbjarnar Harðarsonar ór Örnólfsdal. Móðir Ingibjargar var Þorgerðr, dóttir Miðfjarðar-Skeggja. Börn Ingibjargar ok Illuga váru mörg, en fá koma við þessa sögu. Hermundur hét son þeira, en annarr Gunnlaugr. Báðir váru þeir efniligir menn ok þá frumvaxta. Svá er sagt frá Gunnlaugi, at hann var snemmendis bráðgörr, mikill ok sterkr, ljósjarpr á hár, ok fór allvel, svarteygr ok nökkut nefljótr, ok þó skapfelligr í andliti,

miðmjór ok herðimikill, kominn á sik manna bezt, hávaðamaðr mikill í öllu skaplyndi ok framgjarn snemmendis ok við allt óvæginn ok harðr ok skáld mikit ok heldr níðskár ok kallaðr Gunnlaugr ormstunga. Hermundr var þeira vinsælli ok hafði höfðingjabragð á sér. Ok er Gunnlaugr var fimmtán vetra gamall, bað hann föður sinn fararefna, ok kvazk hann vilja fara útan ok sjá sið annarra manna. Illugi bóndi tók því seinliga, kvað hann eigi mundu þykkja góðan í útlöndum, er hann þóttisk trautt mega semja við hann þar heima, sem hann vildi. Ok einhvern morgun var þat, allltitlu síðar, at Illugi bóndi gekk út snemma ok sá, at útibúr hans var opit ok váru lagðir út vörusekkar nökkurir á hlaðit sex, ok þar lénur með. Hann undraðisk þetta mjök. Þar gekk þá at maðr ok leiddi fjögur hross, ok var þar Gunnlaugr son hans ok mælti: »Ek hefi sekkana út lagit,« segir hann. Illugi spyrr, hví hann gerði svá. Hann sagði, at þat skyldi vera fararefni hans. Illugi mælti: »Engi ráð skalt þú taka af mér, ok fara hvergi, fyrr en ek vil,« ok kippði inn aptr vörusekkunum. Gunnlaugr reið þá í brott þaðan ok kom um kveldit til Borgar, ok bauð Þorsteinn bóndi honum þar at vera, ok þat þiggr hann. Gunnlaugr segir Þorsteini, hversu farit hafði með þeim feðgum. Þorsteinn bað hann þar vera

þeim stundum sem hann vildi, ok þar var hann þau missari ok nam lögspeki at Þorsteini ok virðisk öllum mönnum þar vel til hans. Jafnan skemmtu þau Helga sér at tafli ok Gunnlaugr. Lagði hvárt þeira góðan þokka til annars bráðliga, sem raunir bar á síðan. Þau váru mjök jafnaldrar. Helga var svá fögr, at þat er sögn fróðra manna, at hon hafi fegrst kona verit á Íslandi. Hár hennar var svá mikit, at þat mátti hylja hana alla, ok svá fagrt sem gullbarit, ok engi kostr þótti þá þvílíkr sem Helga in fagra í öllum Borgarfirði ok víðara annars staðar.

Ok einhvern dag, er menn sátu í stofu at Borg, þá mælti Gunnlaugr til Þorsteins: »Einn er sá hlutr í lögum, er þú hefir eigi kennt mér, at fastna mér konu.« Þorsteinn segir: »Þat er lítit mál,« ok kenndi honum atferli. Þá mælti Gunnlaugr: »Nú skalt þú vita, hvárt mér hafi skilizk, ok mun ek nú taka í hönd þér ok láta sem ek festa mér Helgu dóttur þína.« Þorsteinn segir: »Þarfleysi ætla ek þat vera,« segir hann. Gunnlaugr þreifaði þá þegar í hönd honum ok mælti: »Veit mér nú þetta,« segir hann. »Ger sem þú vill,« segir Þorsteinn, »en þat skulu þeir vita, er hjá eru staddir, at þetta skal vera sem ómælt ok skulu þessu engi undirmál fylgja.« Síðan nefndi Gunnlaugr sér vátta ok fastnaði sér Helgu ok

spurði síðan, hvárt þá mætti svá nýta. Hann kvað svá vera mega, ok varð mönnum mikit gaman at þessu, þeim sem við váru staddir.

5. Önundr hét maðr, er bjó suðr at Mosfelli. Hann var auðmaðr inn mesti ok hafði goðorð suðr þar um nesin. Hann var kvángaðr maðr, ok hét Geirný kona hans, Gnúpsdóttir, Molda-Gnúps sonar, er nam suðr Grindavík. Þeira synir váru þeir Hrafn ok Þórarinn ok Eindriði. Allir váru þeir efniligir menn, en þó var Hrafn fyrir þeim í hvívetna. Hann var mikill maðr ok sterkr, manna sjáligastr ok skáld gott, ok er hann var mjök rosknaðr, þá fór hann landa á milli ok virðisk hvervetna vel, þar sem hann kom. Þá bjó suðr á Hjalla í Ölfusi þeir Þóroddr inn spaki Eyvindarson ok Skapti, son hans, er þá var lögsögumaðr á Íslandi. Móðir Skapta var Rannveig, dóttir Gnúps Molda-Gnúpssonar, ok váru þeir systra synir Skapti ok Önundarsynir. Var þar vinátta mikil með frændsemi. Þá bjó út at Rauðamel Þorfinnr Selþórisson ok átti sjau sonu, ok váru allir efniligir menn. Þeir hétu svá: Þorgils, Eyjólfr ok Þórir, ok váru þeir mestir menn út þangat. Ok þessir menn, er nú eru nefndir, váru allir uppi á einn tíma.

Ok þessu nær urðu þau tíðendi, er bezt hafa orðit hér á Íslandi, at landit varð allt

kristit, ok allt fólk hafnaði fornum átrúnaði. Gunnlaugr ormstunga, er áðr var frá sagt, var nú ýmist at Borg með Þorsteini eða Illuga föður sínum á Gilsbakka, þrjá vetr, ok var hann þá átján vetra, ok samðisk þá mikit með þeim feðgum. Maðr hét Þorkell svarti. Hann var heimamaðr Illuga ok náfrændi ok hafði þar upp vaxit. Honum tœmðisk arfr norðr í Vatnsdal í Ási, ok beiddi hann Gunnlaug fara með sér, ok hann gerði svá, ok riðu norðr tveir saman í Ás ok fengu féit, ok greiddu þeir féit af höndum, er varðveitt höfðu, með atgöngu Gunnlaugs. Ok er þeir riðu norðan, gistu þeir í Grímstungum at auðigs bónda, er þar bjó. Ok um morgininn tók smalamaðr hest Gunnlaugs, ok var þá sveittr mjök, er þeir fengu. Gunnlaugr laust smalamanninn í óvit. Bóndi vildi eigi svá búit hafa ok beiddi bóta fyrir. Gunnlaugr bauð at gjalda bónda mörk. Bónda þótti þat of lítit. Gunnlaugr kvað vísu:

(1) Mörk bauðk mundangs sterkum
manni; tygjask hranna
grásíma skalt góma
glós býtir þat nýta;
iðrask munt, ef yðrum
afraðs flóða ór sjóði
lætr eyðanda líða
linns samlegu kindar.

Þessi varð sætt þeira, sem Gunnlaugr bauð, ok riðu þeir heim við svá búit. Ok litlu síðar beiddi Gunnlaugr föður sinn fararefna í annat sinn. Illugi segir: »Nú skal vera sem þú vill,« segir hann. »Hefir þú nú heldr samit þik ór því sem var.« Reið Illugi þá heiman skjótt ok keypti skip hálft til handa Gunnlaugi, er uppi stóð í Gufuárósi, at Auðuni festargram. Þessi Auðun vildi eigi útan flytja sonu Ósvífs ins spaka eptir víg Kjartans Óláfssonar, sem segir í Laxdœla sögu, ok varð þat þó síðar en þetta. Ok er Illugi kom heim, þá þakkaði Gunnlaugr honum vel. Þorkell svarti rézk til ferðar með Gunnlaugi, ok var fluttr varnaðr þeira til skips; en Gunnlaugr var at Borg meðan þeir bjuggu skipit, ok þótti glaðara at tala við Helgu en vera í starfi með kaupmönnum. Einhvern dag spurði Þorsteinn Gunnlaug, ef hann vildi ríða til hrossa með honum upp í Langavatnsdal. Gunnlaugr kvazk þat vilja. Nú ríða þeir tveir saman, þar til er þeir koma til selja Þorsteins, er heita á Þorgilsstöðum, ok váru þar stóðhross, er Þorsteinn átti, fjögur saman, ok váru rauð at lit. Hestr var allvænligr ok lítt reyndr. Þorsteinn bauð að gefa Gunnlaugi hestinn, en hann kvazk eigi hrossa þurfa, er hann ætlaði af landi. Ok þá riðu þeir til annarra stóðhrossa. Var þar hestr grár með fjórum merum, ok

var sá baztr í Borgarfirði, ok bauð Þorsteinn at gefa þann Gunnlaugi. Hann svarar: »Eigi vil ek þessi heldr en hin; eða hví býðr þú mér eigi þat, er ek vil þiggja?« »Hvat er þat?« segir Þorsteinn. Gunnlaugr mælti: »Helga in fagra, dóttir þín.« Þorsteinn svarar: »Eigi mun þat svá skjótt ráðask,« segir hann ok tók annat mál, ok riðu heimleiðis ofan með Langá. Þá mælti Gunnlaugr: »Vita vil ek,« segir hann, »hverju þú vill svara mér um bónorðit.« Þorsteinn svarar: »Ekki sinni ek hégóma þínum,« segir hann. Gunnlaugr mælti: »Þetta er alhugi minn en eigi hégómi.» Þorsteinn svarar: »Vita skyldir þú fyrst, hvat þú vildir. Ertu eigi ráðinn til útanferðar ok lætr þó sem þú skylir kvángask. Er þat ekki jafnræði með ykkr Helgu, meðan þú ert svá óráðinn, ok mun því ekki verða á litit.« Gunnlaugr mælti: »Hvar til ætlar þú um gjaforð dóttur þinnar, ef þú vill eigi gipta syni Illuga svarta, eða hverir eru þeir í Borgarfirði, er meira háttar sé en hann?« Þorsteinn svarar: »Ekki fer ek í mannjöfnuð,« segir hann, »en værir þú slíkr maðr sem hann, þá mundi þér eigi frá vísat.« Gunnlaugr mælti: »Hverjum vill þú heldr gipta dóttur þína en mér?« Þorsteinn svarar: »Mart er hér gott mannval. Þorfinnr at Rauðamel á sjau sonu ok alla vel mannaða.« Gunnlaugr svarar: »Hvárgi þeira Önund-

ar né Þorfinns er jafnmenni föður míns, því at þik skortir sýnt við hann, eða hvat hefir þú í móti því, er hann deildi kappi við Þorgrím goða Kjallaksson á Þórnesþingi ok við sonu hans ok hafði einn þat er við lá?« Þorsteinn svarar: »Ek støkkða í brott Steinari, syni Önundar sjóna, ok þótti þat heldr mikilræði.« Gunnlaugr svarar: »Egils nauztu at því, föður þíns, enda mun þat fáum bóndum vel endask at synja mér mægðar.« Þorsteinn svarar: »Hafðu í frammi kúgan við þá uppi við fjöllin, en þat kemr þér fyrir ekki hér úti á Mýrunum.« Um kveldið koma þeir heim. Ok um morgininn ríðr Gunnlaugr upp á Gilsbakka ok bað föður sinn ríða til kvánbœna með sér út til Borgar. Illugi svarar: »Þú ert óráðinn maðr, þar sem þú ert ráðinn til útanferðar, en lætr nú sem þú skulir starfa í kvánbœnum, ok veit ek, at slíkt er ekki við skaplyndi Þorsteins.« Gunnlaugr svarar: »Ek ætla þó útan allt eins, ok líkar mér ekki, útan þú fylgir þessu.« Síðan reið Illugi heiman með tólfta mann ofan til Borgar, ok tók Þorsteinn vel við honum. Um morgininn snemma rœddi Illugi til Þorsteins: »Ek vil tala við þik.« Þorsteinn svarar: »Göngum upp á borgina ok tölum þar.« Ok svá gerðu þeir. Gunnlaugr gekk með þeim. Þá mælti Illugi: »Gunnlaugr frændi minn kvezk hafa vakit bónorð

við þik fyrir sína hönd, at biðja Helgu dóttur þinnar, en nú vil ek vita, hvern stað eiga skal málit. Er þér kunnig ætt hans ok fjáreign vár. Skal hvárki til spara af várri hendi staðfestu né manna forráð, ef þá er nær en áðr.« Þorsteinn svarar: »Þat eitt finn ek Gunnlaugi, at mér þykkir hann vera óráðinn,« segir hann, »en ef hann væri þér líkr í skaplyndi, þá munda ek lítt seinka.« Illugi svarar: »Þetta mun okkr verða at vinslitum, ef þú synjar okkr feðgum jafnræðis.« Þorsteinn svarar: »Fyrir þín orð,« segir hann, »ok okkra vingan, þá skal Helga vera heitkona Gunnlaugs, en eigi festarkona, ok bíða þrjá vetr; en Gunnlaugr skal fara útan ok skapa sik eptir góðra manna siðum, en ek skal lauss allra mála, ef hann kemr eigi svá út eða mér virðisk eigi skapferði hans.« Ok við þetta skilja þeir. Ríðr Illugi heim en Gunnlaugr til skips. Ok er þeim gaf byr, létu þeir í haf ok kómu skipi sínu norðr við Nóreg ok sigldu inn eptir Þrándheimi til Niðaróss ok lágu þar í lægi ok skipuðu upp.

**6.** Í þenna tíma réð fyrir Nóregi Eiríkr jarl Hákonarson ok Sveinn bróðir hans. Eiríkr jarl hafði þá atsetu inn á Hlöðum at föðurleifð sinni ok var ríkr höfðingi. Skúli Þorsteinsson var þá með jarli ok var hirðmaðr hans ok vel metinn. Þat er frá sagt, at

þeir Gunnlaugr ok Auðun festargramr gengu, tólf menn saman, inn á Hlaðir. Gunnlaugr var svá búinn, at hann var í grám kyrtli ok í hvítum leistbrókum. Sull hafði hann á fœti niðri á ristinni; freyddi ór upp blóð ok vágr, er hann gekk við. Ok með þeim búningi gekk hann fyrir jarlinn ok þeir Auðun, ok kvöddu hann vel. Jarl kenndi Auðun ok spyrr hann tíðenda af Íslandi, en Auðun sagði slík sem váru. Jarl spyrr Gunnlaug, hverr hann væri, en hann sagði honum nafn sitt ok ætt. Jarl mælti: »Skúli Þorsteinsson,« sagði hann, »hvat manna er þessi á Íslandi?« »Herra,« segir hann, »takið honum vel; hann er ins bezta manns son á Íslandi, Illuga svarta af Gilsbakka, ok fóstbróðir minn.« Jarl mælti: »Hvat er fœti þínum, Íslendingr?« »Sullr er á, herra,« sagði hann. »Ok gekk þú þó ekki haltr?« Gunnlaugr svarar: »Eigi skal haltr ganga, meðan báðir fœtr eru jafnlangir.« Þá mælti hirðmaðr jarls, er Þórir hét: »Þessi rembisk mikit, Íslendingrinn, ok væri vel, at vér freistaðim hans nökkut.« Gunnlaugr leit við honum ok mælti:

(2) Hirðmaðr es einn,
sá es einkar meinn.
Trúið hánum vart,
hann es illr ok svartr.

Þá vildi Þórir grípa til øxar. Jarl mælti: »Lát vera kyrrt,« segir hann, »ekki skulu menn gefa at slíku gaum eða hve gamall maðr ertu, Íslendingr?« Gunnlaugr svarar: »Ek em nú átján vetra,« segir hann. »Þat læt ek um mælt,« segir jarl, »at þú verðir eigi annarra átján.» Gunnlaugr mælti ok heldr lágt: »Bið mér engra forbœna,« segir hann, »en bið þér heldr.« Jarl mælti: »Hvat sagðir þú nú, Íslendingr?« Gunnlaugr svarar: »Svá sem mér þótti vera eiga, at þú bæðir mér engra forbœna, en bæðir sjálfum þér hallkvæmri bœna.« »Hverra þá?« segir jarl. »At þú fengir eigi þvílíkan dauðdaga, sem Hákon jarl faðir þinn.« Jarl setti svá rauðan sem blóð ok bað taka fól þetta skjótt. Þá gekk Skúli fyrir jarl ok mælti: »Gerið fyrir mín orð, herra, ok gefið manninum grið, ok fari hann sem skjótast.« Jarl mælti: »Verði hann á brottu sem skjótast, ef hann vill griðin hafa, ok komi aldri í mitt ríki síðan.« Þá gekk Skúli út með Gunnlaugi ok ofan á bryggjur. Þar var Englandsfar albúit til útláts, ok þá tók Skúli Gunnlaugi far ok Þorkatli frænda hans. En Gunnlaugr fekk Auðuni skip sitt til varðveizlu ok fé sitt, þat er hann hafði eigi með sér. Nú sigla þeir Gunnlaugr í Englandshaf ok kómu um haustit suðr við Lundúnabryggjur ok réðu þar til hlunns skipi sínu.

7. Þá réð fyrir Englandi Aðalráðr konungr Játgeirsson ok var góðr höfðingi. Hann sat þenna vetr í Lundúnaborg. Ein var þá tunga á Englandi sem í Nóregi ok í Danmörku; en þá skiptusk tungur í Englandi, er Vilhjálmr bastarðr vann England. Gekk þaðan af í Englandi valska, er hann var þaðan ættaðr. Gunnlaugr gekk bráðliga fyrir konung ok kvaddi hann vel ok virðuliga. Konungr spurði, hvaðan af löndum hann væri. Gunnlaugr segir sem var, »en því hefi ek sótt á yðvarn fund, herra, at ek hefi kvæði ort um yðr, ok vilda ek, at þér hlýddið kvæðinu.« Konungr kvað svá vera skyldu. Gunnlaugr flutti fram kvæðit vel ok sköruliga; en þetta er stefit í:

(3) Herr sésk allr ens örva
Englands sem goð þengil
ætt lýtr grams ok gumna
gunnbráðs Aðalráði.

Konungr þakkaði honum kvæðit ok gaf honum at bragarlaunum skarlatsskikkju skinndregna inum beztum skinnum ok hlaðbúna í skaut niðr ok gerði hann hirðmann sinn, ok var Gunnlaugr með konungi um vetrinn ok virðisk vel. Ok einn dag um morgininn snemma þá mœtti Gunnlaugur þrim mönnum á stræti einu, ok nefndisk sá Þórormr, er fyrir

2*

þeim var. Hann var mikill ok sterkr ok furðu torvelligr. Hann mælti: »Norðmaðr«, segir hann, »sel mér fé nökkut at láni.« Gunnlaugr svarar: »Ekki mun það ráðligt at selja fé sitt ókunnum mönnum.« Hann svarar: »Ek skal gjalda þér at nefndum degi.« »Þá skal á þat hætta,« segir Gunnlaugr. Síðan seldi hann honum féit. Ok litlu síðar fann Gunnlaugr konunginn ok segir honum fjárlánit. Konungr svarar: »Nú hefir lítt til tekizk. Þessi er inn mesti ránsmaðr ok víkingr, ok eig ekki við hann, en ek skal fá þér jafnmikit fé.« Gunnlaugr svarar: »Illa er oss þá farit,« segir hann »hirðmönnum yðrum, göngum upp á saklausa menn, en láta slíka sitja yfir váru, ok skal þat aldri verða.« Ok litlu síðar hitti hann Þórorm ok heimti féit at honum, en hann kvazk eigi gjalda mundu. Gunnlaugr kvað þá vísu þessa:

(4) Meðalráð es þér, Móði
malma galdrs, at halda,
att hafið ér við prettum
oddrjóð, fyr mér hoddum;
vita mátt hitt, at heitik,
hér sék á því fœri,
þat fekksk nafn af nøkkvi,
naðrstunga, mér ungum.

»Nú vil ek bjóða þér lög,« segir Gunnlaugr,

»at þú gjalt mér fé mitt, eða gakk á hólm við mik ella á þriggja nátta fresti.« Þá hló víkingrinn ok mælti: »Til þess hefir engi orðit fyrri en þú at skora mér á hólm, svá skarðan hlut sem margr hefir fyrir mér borit, ok em ek þessa albúinn,« ok við þat skilðu þeir Gunnlaugr at sinni. Gunnlaugr segir konungi svá búit. Hann svarar: »Nú er komit í allóvænt efni. Þessi maðr deyfir hvert vápn. Nú skaltu mínum ráðum fram fara, ok er hér sverð, er ek vil gefa þér, ok með þessu skaltu vega, en sýn honum annat.« Gunnlaugr þakkaði konungi vel. Ok er þeir váru til hólms búnir, þá spyrr Þórormr, hvernig sverð þat væri, er hann hafði. Gunnlaugr sýnir honum ok bregðr, en hafði lykkju um meðalkafla á konungsnaut ok dregr á hönd sér. Berserkrinn mælti, er hann sá sverðit: »Ekki hræðumk ek þat sverð,« segir hann ok hjó til Gunnlaugs með sverði ok af honum mjök svá skjöldinn allan. Gunnlaugr hjó þegar í mót með konungsnaut, en berserkrinn stóð hlífarlauss fyrir ok hugði, at hann hefði it sama vápn ok hann sýndi; en Gunnlaugr hjó hann þegar banahögg. Konungr þakkaði honum verkit, ok af þessu fekk hann mikla frægð í Englandi ok víða annars staðar. Um várit, er skip gengu milli landa, þá bað Gunnlaugr Aðalráð konung orlofs at sigla nökkut. Konungr spyrr, hvat hann vildi þá.

